# PLATÓ

EFTIR

GUNNAR DAL

GRÍSK HEIMSPEKI

TÍUNDA BÓK

## EFNISYFIRLIT:

GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959
Leitin að Aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hviti Lótus, 1962
Yoga Sútra Patanjalis, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962
Grískir heimspekingar, 1962
Öld Sókratesar, 1963
Varnarræða Sókratesar, 1963
Raddir morgunsins (ljóð), 1964
Móðir og barn (þýdd ljóð), 1964
Plató, 1966
Aristóteles, 1966

## *Ævi Platós.*

Plató, frægasti lærisveinn Sókratesar, hlaut í vöggugjöf flest það, sem talið er eftirsóknarverðast í lífinu. Auðlegð og frændastyrkur samfara yfirburða gáfum og líkamlegu atgerfi voru þær heillastjörnur, sem þessi mesti heimspekingur fornaldar fæddist undir. Faðir hans Ariston rakti ætt sína til konunga, og móðir hans Perictiona átti einnig til stórmenna að telja og frændur hennar Charmides og Kritias voru helztir foringjar höfðingjasinna í Aþenu. Stjúpi Platós, Pyrilampes, var hins vegar fylgjandi og trúnaðarvinur Periklesar, páfa hins gríska lýðræðis. Plató er fæddur 427 f.Kr. — Veldi Aþenu hafði þá náð hátindi sínum, en 3 árum fyrir fæðingu Platós gerast þeir atburðir, sem reyndust upphaf að hnigun hennar, Pelopseyjastríðið brauzt út 430. Það stóð í 26 ár og lauk með niðurlægingu Aþenu og glötun sambandsríkja hennar. Plágan mikla, sem sigldi í kjölfar stríðsins, veikti Aþenu innávið og olli þar miklu mannfalli og upplausn á siðgæði. Plató tók því einnig í arf skyldu ættar sinnar

að ráða fram úr stjórnmálalegum og siðferðilegum vandamálum borgríkisins, og vegna þessarar skyldu leitar hann síðar á vit heimspekinnar til að finna þar svör við vandamálum aldarinnar. Á heimili sínu kynntist Plató strax í æsku sviptibyljum stjórnmálanna, sem rædd voru þar, ef að líkum lætur, af mörgum helztu framámönnum Aþenu.

Strax eftir dauða Periklesar komust völdin í hendur róttækra lýðræðissinna, sem móðurfrændur Platós litu á sem lýðskrumara. Menn eins og sútarinn Kleon og lampakaupmaðurinn Hyperbólos náðu tökum á lýðnum í krafti mælskulistar sinnar og miðuðu afstöðu sína meir við, hvað var vinsælt og líklegt til fylgis, en hvað var ríkinu fyrir beztu. Loks þegar herleiðangur þeirra gegn Sýrakúsu á Sikiley endaði í algjörum ósigri, brauzt út bylting gegn þessum leiðtogum og höfðingjastjórn (fjögur hundruð manna ráðið) tók völdin. Árið eftir var þessari stjórn breytt í auðstjórn hinna fimm þúsunda, — þ. e. a. s. aðeins vel stæðir borgarar fóru með stjórn landsins. Næsta ár náðu lýðræðisöflin aftur stjórninni í sínar hendur og létu þá kné fylgja kviði. Stóð ógnarstjórn þeirra í 6 ár og endaði með hruni Aþenu 404. Spartverjar hertóku borgina og með þeirra hjálp var auðmannastjórn (hinir þrjátíu harðstjórar) aftur sett á laggirnar. Hún reyndist sýnu verri en lýðveldissinnar, og

að átta mánuðum liðnum voru hinir þrjátíu hraktir frá völdum og drepnir. Hin nýja lýðræðisstjórn, sem sigldi í kjölfarið lét það verða sitt fyrsta verk að taka Sókrates af lífi.

Þetta var það þjóðfélag, sem Plató kynntist í æsku sinni, og þótti honum vandséð hverra hlutur var þar verstur. Hann lýsir þessu síðar í „Ríkinu“ eitthvað á þessa leið: „Því betur sem ég kynntist stjórnmálamönnum, lögum og siðum aldarinnar, og því eldri sem ég varð þeim mun vonlausara virtist mér að takast mætti að stjórna viturlega. Án traustra vina og stuðningsmanna, var engu hægt að áorka, og slíkir menn voru vandfundnir á öld, sem glatað hafði hinu forna siðgæði sínu og var ófært um að skapa sér nýtt. Lög og siðgæði fóru hraðversnandi, og þótt framalöngun á sviði stjórnmála altæki huga minn, þá fyllti hin pólitíska ringulreið mig viðbjóði, og þótt ég hætti aldrei að hugsa um, hvernig ráða mætti bót á málum þjóðfélagsins og endurbæta stjórnarfarið, þá féllust mér jafnan hendur, þegar til framkvæmdanna kom. Að lokum komst ég að þeirri niðurstöðu, að öllum ríkjum væri illa stjórnað, og stjórnarskrár þeirra yrðu ekki endurbættar án róttækra aðgerða og töluverðrar heppni. Ég komst ekki hjá að álíta, að svarið við spurningunni um réttlæti einstaklingum og þjóðum til handa væri að finna í heim-

spekinni, og að mannkyninu myndi aldrei farnast vel, fyrr en sannir heimspekingar færu með völdin, eða þau undur gætu gerzt, að stjórnmálamenn yrðu sannir heimspekingar.“

Ekki er mikið vitað um æsku Platós. Hann elzt upp í anda grískrar hámenningar, sem hafði að kjörorði sínu: heilbrigð sál í hraustum líkama. Plató virðist hafa skarað fram úr öðrum sveinum í íþróttum og tók með góðum árangri þátt í hinum hörðustu af grískum kappleikjum. Sagt er að hann hafi hlotið nafn sitt Plató sem viðurnefni, sökum hinna breiðu herða sinna. (Þetta er þó fremur ólíklegt, þar sem Plató er algengt grískt nafn). Þá er svo að sjá sem honum hafi snemma verið fengin nokkur tilsögn í skáldskap, mælskulist og heimspeki. Innan við tvítugt er hann sjálfur farinn að fást við að yrkja hetjukvæði og ástarljóð, og samdi auk þess nokkra harmleiki. En af skáldskap hans hefur lítið varðveitzt. Ekki er ósennilegt að sófistinn Kratýlos, sem síðar varð frægur í ritum Platós, hafi verið fenginn til að segja honum til í mælskulist og heimspeki. Herakleítos og Anaxagóras voru einkum í tízku á þessum árum, og verk þeirra oftlega lesin upphátt og rædd á Agóru, stórtorginu í Aþenu.

Hvenær fundum Platós og Sókratesar bar fyrst saman er ekki vitað, en ef trúa má frásögn Platós í

„Ríkinu", hlýtur það að hafa verið á uppvaxtarárum hans. Sókrates er þar sagður náinn vinur Glaukons og Adeimantesar, og hefur því verið handgenginn fjölskyldu Platós. Plató fyllir því vafalaust snemma hóp þeirra ungmenna, sem fylgja Sókratesi um götur Aþenu og njóta þeirrar skemmtunar að hlusta á hinn berfætta heimspeking afhjúpa fáfræði þeirra lærdómsmanna, sófistanna, sem ríkir feður höfðu keypt til að veita sonum sínum tilsögn í mælskulist og heimspeki. En samband Platós við Sókrates var af öðrum og sterkari toga spunnið. Þegar Plató er um tvítugt og tekinn að hugleiða stjórnmál fann hann hið hagnýta gildi sem fólst í heimspeki Sókratesar. Hún byggðist öll á þeirri trú, að þekkingin leiddi til dyggða, sem einar gætu skapað betra þjóðfélag. Þess vegna varð kenning Sókratesar í augum Platós svarið við þeim þjóðfélagsvanda, sem Plató hafði tekið að erfðum og fannst hann fæddur til að glíma við og leysa.

Við dauða Sókratesar sór Plató þess eið að verja ævi sinni til að bera hugsjónir hans fram til sigurs. Byggja upp heimspeki, sem síðar yrði hinn andlegi grundvöllur nýrra og betri stjórnenda. Hugsjón hans átti að bylta lífi og stjórnarháttum allrar hinnar þekktu veraldar, en þessi bylting átti ekki að gerast

í orustugný vígvallarins heldur í þöglu hjarta mannsins.

Eftir dauða Sókratesar virðast helztu fylgjendur hans hafa haldið einskonar ráðstefnu í Megara í Böótiu á heimili Auklidesar og lagt þar á ráðin um endurreisn grískrar menningar á grundvelli heimspekinnar. Þessi fámenni hópur stefndi runar frá upphafi að andlegum heimsyfirráðum. Helztu keppinautar um foringjasætið voru Antisþenes og Plató. Plató bar hærri hlut í þessari viðureign og hóf að rita fyrsta verk sitt „Varnarræðu Sókratesar" og síðan hverja bókina á fætur annarri um leiðina til að skapa nýjan og betri heim.

Vegna hins mikla hlutverks sins var Plató nauðsyn að kynnast veröldinni, og næstu 12 árum varði hann til ferðalaga. Á þessum árum skrifar hann einnig mörg helztu verk sín. Það liggur nokkur hula yfir þessum ferðum Platós, og um þær vita menn fátt með vissu. Talið er þó víst að hann hafi dvalizt í Litlu-Asíu, Egyptalandi og í Kyrenu í Norður-Afríku með stjarnfræðingnum og heimspekingnum Þeódórosi. Plató virðist þó oft hafa snúið aftur heim til Aþenu á þessu tímabili og dvalist þar, því að þess er getið að hann hafi gegnt herþjónustu og tekið þátt í þremur leiðangrum með her Aþenu.

Í lok þessara undirbúningsára ferðaðist Plató til

hinna fornu höfuðstöðva Pýþagóringa á Suður-Ítalíu, en Sókrates hafði verið foringi þeirra í Grikklandi eftir dauða Pýþagórasar. Plató treysti á ný hin fornu bönd og dvaldist með Arkytas frá Tarent, sem um þessar mundir var helzti heimspekingur bræðralagsins.

Þegar hér var komið sögu, áleit Plató, að tími væri kominn til að hefja hina fyrstu miklu tilraun til að gera stjórnmálamenn að heimspekingum. Og Plató hélt til Sýrakúsu á Sikiley á fund einvalda hennar Díonýsíosar I. Aðrir helztu fyrirmenn við hirðina voru ríkisarfinn Díonýsíos II, og Díon mágur konungsins. Það fór vel á með þeim Plató og Díon, og er sagt, að Díon hafi tileinkað sér hinar nýju kenningar og snúið baki við hégóma hirðlífsins í leit að andlegum verðmætum. En heimspekingurinn Plató og harðstjórinn Díonýsíós I. áttu ekki skap saman, og reyndust allar tilraunir Platós til að uppfræða Díonýsíos árangurslausar og vöktu aðeins reiði hans. Segir sagan að harðstjórinn hafi ætlað að láta ráða heimspekinginn af dögum, en vegna milligöngu Díons var lífi Platós þyrmt og hann að sögn seldur í þrældóm. Eftir nokkrar hrakningar var Plató loks bjargað af vini hans Annikeris frá Kyrenu. (Ekki eru menn þó á eitt sáttir um sannleiksgildi þessara sagna.) Plató kom heim til Aþenu árið 388 f.Kr. og var fagnað þar

af hópi hinna gömlu fylgjenda, sem höfðu lengi beðið foringja sins. Fyrsta verk hans eftir heimkomuna var að stofna heimspekiskóla sinn, er hann nefndi Akademia, en af honum draga allir háskólar nafn sitt.

Plató var nú fertugur, og ævi hans hálfnuð. Námsárin og könnun heimsins var að baki og undirbúningnum lokið. Nú var kominn tími til að hefja það verk, sem breyta skyldi allri veröldinni. Með vopnum andans skyldi heimurinn sigraður og frá þessari stofnun skyldu hinir nýju stjórnendur koma. Réttlætið, hið sanna, hið fagra og hið góða skyldi leysa spillinguna, fáfræðina og heimskuna af hólmi.

Plató keypti hús og land fyrir skóla sinn í útjaðri Aþenu hjá ánni Kefissos. Þar var lystigarður og iþróttasvæði borgarinnar, er nefndist eftir hinni grisku hetju Akademos, og dró skólinn nafn af þessum garði. Þannig stóðu íþróttaleikvangurinn og heimspekiskólinn hlið við hlíð, enda lagði Plató mikla áherzlu á líkamsrækt, og iðkendur heimspekinnar áttu jöfnum höndum að leggja rækt við likama sinn og sál sina, þar sem líkaminn var álitinn hluti hins andlega vandamáls.

Sennilega hafa flestir frjálsbornir Aþeningar með einhverjum hætti gerzt nemendur þessa skóla, en um eiginlega nemendur i nútíma merkingu er þar naumast að ræða. Sumir lásu aðeins heimspekirit Platós,

sem send voru út meðal almennings til að vekja áhuga á starfsemi skólans, aðrir komu og hlýddu á opinbera fyrirlestra fyrir almenning, og enn aðrir gerðust heimamenn og tóku þátt í hinni innri starfsemi. Plató getur þess í ritum sínum, að hann telji hinar munnlegu rökræður veigamesta þátt skólans. Nemendur og meistari gengu þá um garðinn og brutu sameiginlega til mergjar heimspekileg og vísindaleg viðfangsefni.

Meðal frægustu nemenda skólans voru Speusippos og Xenókrates, sem báðir urðu forstöðumenn Akademíunnar eftir daga Platós, — og Aristóteles, sem stundaði hér nám í tuttugu ár áður en hann hóf hið mikla ævistarf sitt.

Sagt er, að yfir dyrum á bókasafni skólans hafi staðið þessi áletrun: „Engir nema flatarmálsfræðingar eiga hingað erindi". — Sumir hafa dregið þetta í efa, vegna þess að Plató eins og kunnugt er hafði lítið álit á stærðfræði. En þessi mótbára er haldlaus. Einmitt vegna þess að Plató litur á stærðfræðina, sem lægsta þrep þeirra hugðarefna, sem skóli hans tók til meðferðar, er þetta eðlileg lágmarkskrafa um undirbúningsmenntun þeirra, sem taka vildu þátt í innri störfum skólans. Ofar stærðfræði taldi Plató stjörnufræði, rökfræði og þó einkum heimspeki. Fyrirlestrarnir voru öllum opnir. Konur voru þar

velkomnar, enda boðaði Plató jafnan rétt karla og kvenna til menntunar. Eins var útlendingum aðsókn jafn heimil og heimamönnum, og öll fræðsla var veitt ókeypis. — Skóli Platós átti sér sína keppinauta, þeirra þekktastir voru sófistarnir, sem kenndu ríkum ungmennum mælskulist og málflutning gegn borgun. Skóli Ísókratesar var skæður keppinautur og loks áttu ýmsir hugsuðir Aþenu ekki samleið með flokki Platós, og litu hann öfundaraugum.

Saga er t. d. til um að heimspekingurinn Díógenes, frægasti tómhyggjumaður Aþenu, hafi eitt sinn komið óboðinn til veizlu í húsi Platós, troðið á dýrum ábreiðum á gólfi meistarans og hrópað: „Þannig treð ég á hroka Platós.“ Plató svaraði með hægð: „Með enn meiri hroka, Díógenes.“

En þrátt fyrir margskonar mótbyr kemst nær allt menningarlíf Grikkja á 4. öld undir áhrif Akademíunnar, og frá henni liggja þræðirnir til heimspekiskólans í Alexandríu, sem varð arftaki hennar og vagga Nýplatónismans. — Í skuggsælum lundum óliutrjánna glímdu hinir grísku hugsuðir við lífsgátuna, og á stjörnubjörtum nóttum sátu þeir hljóðir við líkneski Apolló og Erosar og hlýddu á söng lífsins um hina eilífu fegurð og samræmi, sem ríkti ofar heimi hverfulleikans, — fegurð sem kom ofan að, en bæði jörðin og líf mannsins gátu eignazt hlutdeild

í. Hér lifði Plató og starfaði til dauðadags, og eftir hans dag hélt Akademían áfram leit sinni í 9 aldir allt til ársins 529 e.Kr. er hún var lögð niður að boði Jústiníanusar keisara.

Plató var alla ævi trúr þeirri köllun sinni að mennta þjóðhöfðingja, og gera stjórnmálamenn að heimspekingum. Þegar Díónýsíus I. lézt 367 f.Kr. vaknaði ný von í brjósti Platós og hins nýja heimspekilega bræðralags um að nú gæfist tækifæri til að gera hugmyndir Akademíunnar um, hvernig stjórna ætti ríki að veruleika. Vinir Platós á Sikiley, Díon, mágur hins látna einvaldskonungs, og hershöfðinginn og heimspekingurinn Arkýtas frá Tarent aðalforingi Pýþagóringa í vestri, gerðu honum boð um að koma til Sikileyjar og freista þess að vinna Dyonísíus II., hinn nýja einvalda, á band heimspekinganna. Þótt Plató hefði illa reynslu af stjórnendum Sýrakúsa og væri tregur til fararinnar, lét hann samt tilleiðast og lagði upp í aðra ferð sína til Sikileyjar. Hinum fræga heimspekingi var tekið með mikilli viðhöfn og veizlum stórum. Plató hafð þegar unnið sér það álit að vera mesti heimspekingur aldarinnar, og hinum nýja stjórnanda þótti vegsauki að þessari heimsókn. Dyonísíus II. var nú 28 ára gamall og allar lífsvenjur og skoðanir hans fastmótaðar. Hann lifði svallsömu líferni og samdi sig að háttum harðstjóra og barði alla

mótspyrnu og ganrýni niður af miskunnarlausri grimmd. Hann lét síðar skrifa bók, þar sem hann gortar af heimsókn hins fræga heimspekings, og af því að Plató hafi trúað sér fyrir sínum leyndustu hugrenningum. Plató var honum aðeins samskonar skrautfjöður og æðri menning hefur lengst af verið valdamönnum: skreyting hins veraldlega en andlega fátæka valds. Annað gildi hafði Plató ekki í augum hins unga Díonýsiusar. Plató hugðist hins vegar byrja verk sitt frá grunni, og tók að kenna þjóðhöfðingjanum hin lægstu af fræðum Akademíunnar, flatarmálsfræðina. Sú tilraun var fyrirfram dæmd til að misheppnast, og eins fór um heimspekina og allar tiraunir til að fá Dyonísíus II. til að taka upp nýja stjórnarhætti. Plató var einnig rægður af innlendum höfðingjum, sem litu afskiptasemi þessa útlendings illu auga og kölluðu tilraun hans landráð. Liðveizla Dions kom að litlu haldi. Hinn ungi konungur fyrirleit Dion fyrir þann meinlætalifnað, sem hinar nýju hugsjónir hans höfðu í för með sér. Plató varð brátt hataður eins og allir, sem gera of háar kröfur til vitsmuna og siðferðis, og áður en ár var liðið voru bæði hann og Dion reknir úr landi.

Dion settist nú í Akademíu Platós og gerðist meðlimur hins heimspekilega bræðralags. Hann eignaðist

þar nýja vini og hélt enn sambandi sínu við Pýþagór-inga og gamla stuðningsmenn í heimalandi sínu.

Ekkert er jafn áleitið og óttinn við hið óþekkta. Vafalaust hefur Díonýsíus óttast Díon og vini hans í Grikklandi og á Sikiley. Og jafnframt óttast hin nýju óþekktu vopn andans, sem voru í smíðum í Akademíu Platós. Loks stóðst Díónýsíus ekki mátið og gerði sendimenn á fund Platós til að biðja hann að koma aftur á sinn fund til Sikileyjar. Fyrir þessari bón lét hann bera fram þá einu ástæðu, sem hann vissi að gat fengið hinn aldna heimspeking til að leggja upp í þriðju förina til Sikileyjar: Díonýsíus lézt vilja sættast við Díon og bað Plató að vera milli-göngumann um sættina. Og þessi för var farin árið 361 og hún kostaði Plató næstum lífið. Díonýsíus innti vandlega allra frétta frá Akademíunni og var nú búinn að fá mikinn áhuga fyir „geómetríu“ og heimspeki. En er Plató tók að ræða um sættargerðina, eyddi Díonýsíus því tali. Var nú sýnt að vonir Platós um hið nýja ríki á Sikiley höfðu brugðizt. Gerð var tilraun til að myrða Plató, en hún mistókst. Virðist einvaldurinn þá helzt hafa haft í huga að geyma Plató í hinum illræmdu fangelsum sínum, en Arkýtas foringi Pýþagóringa skarst enn í leikinn og bjargaði heimspekingnum úr landi.

Eftir heimkomuna til Aþenu 360 gerðist fullur

fjandskapur milli Díons og Díonýsíusar. Dion tók að undirbúa byltingu og naut til þess styrks frá mörgum úr bræðralagi heimspekinganna. Að þrem árum liðnum hafði Díon unnið sigur og rak Díonýsíos frá völdum.

Þau þrjú ár, sem Díon fór með völd, tókst honum þó ekki að sigrast á þeirri mótstöðu, sem hugmyndir hans mættu. Óvinir hans fengu loks einn þeirra sem Díon treysti bezt, fyrrverandi nemanda Akademíunnar til að myrða hann árið 354. Þessi endalok urðu Plató mikið áfall. Hann skrifaði hið sjöunda bréf sitt sem varnarræðu fyrir Díon, og gaf enn hinum nýju stjórnendum heilræði, sem ekki var farið eftir.

Plató lézt árið 347 og með honum hneig mesti heimspekingur allra tíma. Hann sameinaði á óvenjulegan hátt skarpa rökfasta hugsun, skáldlegt hugarflug og djúpar dulrænar tilfinningar, sem hann tjáði aldrei til fulls: Hann var heimspekingur og skáld, dulhyggjumaður og rökfræðingur. Engum heimspekingi á vestræn menning meira að þakka, en þessum mikla höfðingja andans. Áhrifum hans lýsir einn mesti hugsuður 20. aldar A. N. Whitehead, með þessum orðum. „Saga vestrænnar heimspeki frá 5. öld f.Kr. til þessa dags er ekkert annað en neðanmálsskýringar við heimspeki Platós.“

## *Frummyndakenningin.*

Heimspeki Platós hefur verið nefnd „díalektísk og „realismi“. Merking þesssara orða hjá Plató má þó heita hrein andstæða þess, sem þessi orð tákna oftast á 19. og 20. öld, einkum í fræðum marxismans.

Kjarninn i heimspeki Platós og jafnframt mesta afrek grískrar heimspeki er idíukenning hans, sem hér verður nefnd frummyndakenning. Hún hefur haft meiri áhrif en flestar ef ekki allar heimspekikenningar, enda liggja rætur hennar djúpt. Hún vex upp af dulspeki Pýþagórasar, atómkenningu Anaxagórasar, lógosarkenningu Herakleitosar, kenningu Parmenidesar um eilífa og óumbreytanlega tílveru, leit Sókratesar að algildum hugtökum og loks snilli Platós sjálfs við að sameina eldri heimspeki og lyfta henni um leið upp í æðra veldi. Frummyndakenningin er sá möndull, sem allar hugmyndir Platós snúast um. Siðfræði hans fjallar þannig um frummyndina sem hið æðsta takmark. Heimsmyndunarfræði hans fjallar um sambandið milli náttúrunnar og frummyndanna. Þekkingarfræðin um sambandið milli hugans og frummyndanna.

Helztu niðurstöður frummyndakenningarinnar eru þessar:

1. Frummyndirnar eru andlegur, óumbreytanlegur veruleiki, sem allt hið skapaða er mótað eftir. Sjálfar eru þær óskapaðar og eilífar.

2. Þær eru ekki hugmyndir í venjulegri merkingu þess orðs, og enn síður ímyndun. Þær eru raunverulega til. Þær eru meira að segja meiri veruleiki, en það sem séð er, heyrt og skynjað með skilningarvitunum, því að allur jarðneskur veruleiki er aðeins eftirmynd þeirra. Þær eru raunar hinn eini sanni veruleiki, vegna þess að í heimi hverfulleikans kemur allt og fer, en þær eru óumbreytanlegar. (Platónskur realismi).

3. Frummyndirnar eru óendanlega margar og ólíkar, en mynda eina heild og samræmda veröld. Allt, sem á sér nafn, á sér sína frummynd. Talað er um frummyndir tegunda, og af hverri tegund eru til margir ólíkir einstaklingar, en frummynd hennar er ein. Menn eru t. d. margir og ólíkir ,en frummyndin Maður eða Kona er ein og eftir þeim frumyndum eru allir menn og allar konur skapaðar. Á sama hátt er talað um frummyndir hluta t. d. húss, borðs, eða

stóls, um frummyndir eiginleika t. d. lögunar, lits eða tóns, — um frummyndir, sem eru einskonar „norm“ eða lögmál hugsunar, siðgæðis eða smekks, — um frummyndir, sem ákveða samband eins fyrirbrigðis við annað t. d. jafnrétti, — um frummyndir hreyfingar, t. d. hringrás, um frummyndir, sem snerta gildi hluta, t. d. hreysti, fegurð o. s. frv. Niðurstaðan af þessu er sú, að ekkert er til í hinni ytri veröld, sem á sér ekki frummynd sina í riki andans.

4. Staður frummynda. — En hvar er þá þetta riki andans? — Plató segir, að frummyndirnar eigi sér sérstakt tilverusvið á himnum og þangað verði maðurinn að beina andlegum sjónum sínum til að skynja þær. En þessir himnar eru ekki hluti hinnar efnislegu tilveru. Þeir eru utan tíma og rúms: Andlegur veruleiki hefur ekkert rúmtak fremur en hugsanir og hugmyndir, — og tími er ekki til þar sem eilífðin ríkir og allt er óumbreytanlegt. Frummyndirnar eru þannig óháðar þessum tveimur höfuðeinkennum jarðneskrar tilveru, — tíma og rúmi, — og einmitt í þessu liggur hinn mikli máttur þeirra að dómi Platós. Ef þær væru aðskildar af tíma og rúmi, hlytu þær að dreifast um milljónir staða og deilast milli óteljandi aðskilinna stunda. En sem andleg eining verða þær miðdepill alls máttar. Og vegna þess

getur sá, sem náð hefur andlegri sýn skynjað þær sem eina heild. — Þessi aðskilnaður frummyndanna frá hinni jarðnesku sköpun sinni í tíma og rúmi gengur almennt undir nafninu Platónsk tvíhyggja.

5. Frummyndirnar eru hvorki bundnar hugum manna né guða. Þær eru sjálfstæður veruleiki og því öllu óháðar. Vitund guðanna beinist hins vegar til þeirra og í þeim skilningi verða þær hugsanir þeirra. Plató verður naumast skilinn öðru vísi en að hin æðsta frummynd, er hann nefnir „Hið góða“ sé hinn æðsti guðdómur.

6. Frummyndirnar eru orsök allra breytinga hlutanna, þótt sjálfar breytist þær aldrei að eilífu.

7. Frummyndirnar mynda eina heild, sem ekki verður skilin sundur. Hver frummynd er að vísu sjálfstæð, en um leið hluti æðri einingar. Í ríki andans verður hið marga eitt og hver eining hið marga. Þessi sameining er mynduð á rökréttan og reglubundinn hátt. Slíka rökrétta niðurröðun stighækkandi „þróunar“ frá hinu lægsta til hins hæsta er að finna í náttúrunni. Og þar sem náttúran er eftirmynd frummyndanna, er einnig í hinum andlega heimi að finna hina sömu stighækkandi niðurröðun

frá hinni lægstu frummynd til hinnar æðstu. Frummyndirnar tengjast saman á þann hátt, að sú sem stendur á lægsta þrepi þessa stiga er „yfirskyggð“ af þeirri, sem stendur á næsta þrepi fyrir ofan, en hún er aftur yfirskyggð af annarri, sem stendur enn ofar, og þannig stig af stigi til hinnar æðstu. Hver frummynd er því ljós allra hinna, sem lægri eru. Þær verða þeim mun máttugri og hærri, sem þær sameina stærri og stærri tilveru, því að sameiningin er máttur þeirra. Og að lokum er komið að hinni hæstu frummynd, sem nefnd er „Hið góða“. Sú frummynd sameinar allt í ríki frummyndanna á sama hátt og alheimurinn, Kosmos, felur í sér alla efnislega tilveru. Hún er hinn æðsti guðdómur, sól sem endurspeglast stig af stigi milli frummyndanna og síðan frá þeim til hins jarðneska veruleika. „Hið góða“ er einnig hið raunverulega sanna. Það er tilgangur heimspekinnar að dómi Platós að þekkja hið innra samband frummyndanna og samband þeirra við veröldina. Mannleg skilningarvit geta þó aldrei skilið þýðingu og tilgang „Hins góða“, því að þau geta aldrei séð nema skugga þess.

8. Allt, sem skilningarvit okkar skynja, er í tíma og rúmi, en frummyndirnar eru utan rúms og tíma. Hvernig getum við þá skynjað þessar frummyndir? Plató svarar því til, að andi mannsins hafi þekkt þær

i fyrri tilveru í æðri heimum, og þekkingin á þeim leynist í fyrstu dulvituð í djúpum vitundarinnar. Skilningarvitin skynja þær að vísu ekki, en þau sýna okkur eftirlíkingar þeirra á jörðinni, sem vekja hugboð um hina æðri tilveru og minna á þær með vissum hætti. Fílósófían, — ást mannsins á hinu fagra, góða og sanna, vekur eilífðarþrá hans, andlegt flug og listræna sköpun, sem leiða hann til hins innri veruleika, unz hann hefur öðlazt andlega sýn. Þá verða frummyndirnar anda hans hið sama og hlutveruleikinn er skilningarvitunum. Þá uppgötvar maðurinn að himnaríki frummyndanna er hið innra með honum sjálfum, og þar finnur hann hið fagra, góða og sanna í sínu eilífa eðli. Hinn æðsta sannleika getur þó enginn þekkt nema guð einn, því að hann er hinn innsti leyndardómur.

9. Eins og fyrr segir er allt í náttúrunni eftirmyndir frummyndanna. En hvert er samband þeirra við hlutveruleikann? Plató nefnir einnig það „yfirskyggingu“. Eftirlíkingin er alltaf ófullkomin, en þó misjafnlega ófullkomin. Þetta fer eftir því í hve ríkum mæli eftirlíkingin er „yfirskyggð“ af frummyndinni. Frummyndin fegurð t. d. gefur þannig öllu, sem fagurt er á jörðu, lit sinn og ljóma. Því meiri sem yfirskyggingin verður því fegurra verður það sem yfirskyggt er. Þegar frummyndin fegurð

hverfur frá hinni fögru eftirlíkingu, fölnar hin jarðneska fegurð hennar og hætti frummyndin að yfirskyggja hana deyr hún alveg. Allar breytingar í náttúrunni eiga þannig rót sína að rekja til breyttrar afstöðu frummyndar til hinnar jarðnesku eftirlíkingar. Hinn endanlegi grundvöllur jafnt allra frummynda og allrar náttúru er „Hið góða". Hinn æðsti tilgangur heimspekinnar er því að dómi Platós að kanna hið innra samband milli guðs og veraldarinnar.

## *Þekkingarfræðin.*

Enginn getur tekið afstöðu til heimspekilegra vandamála, fyrr en hann hefur svarað spuringunum: Hvað er sönn þekking? Hver er grundvöllur þekkingarinnar? Eru skilningarvit mannsins þessi grundvöllur? Er reynsla okkar, það sem við sjáum, heyrum og þreifum á, sama og sannleikur? Sófistarnir svöruðu játandi: Reynslan sögðu þeir, byggist á skilningarvitunum, og hugsun og mat okkar á öllum hlutum byggist á þeirri reynslu. — En Plató hafnar þessum grundvelli: Ef hin ólíka og takmarkaða skynjun skynfæranna væri grundvöllurinn, þá er sönn þekking óhugsandi. Hið sanna væri þá breytilegt eftir

einstaklingum og staðháttum. En sönn þekking er hin algilda þekking, og grundvöllur hennar er að dómi Platós ekki hinn ytri heimur, heldur hinn innri veruleiki, andinn. Hugsun er því ekki að skynja hlutveruleikann, heldur skilningur á algildum hugtökum. Það er alls ekki slík ytri skynjun, sem skapar t. d. hugtakið réttlæti. Við verðum að vita hvað réttlæti er, áður en við getum kallað einhvern einstakling réttlátan eða ranglátan, eða dæmt um hvað sé réttlæti í mannlegum samskiptum. Hugtakið réttlæti og lögmál þess eru til í manninum á undan reynslu hans af réttlátum eða ranglátum mönnum, eða réttu og röngu yfirleitt. — Reynslan þroskar að vísu hina meðfæddu en duldu þekkingu á réttlæti og gerir hana skýrari, en reynslan skapar hana ekki. Lögmálið er til í manninum, og vegna þessa meðfædda lögmáls safnar reynsla okkar saman einstökum dæmum úr umhverfinu, líkt og efni er safnað saman í hús, sem áður er til í huga smiðsins. Fyrst eftir að úrval úr reynslunni hefur farið fram birtist lögmálið á yfirborði vitundarinnar. Það var áður óljóst og að nokkru leyti dulvitað, en er nú orðið manninum fyllilega meðvitað. Á sama hátt eru lögmál hins fagra, góða og sanna manninum meðfædd. Reynslan stuðlar að því að vekja skilning mannsins á eðli þeirra, en hún skapar þau alls ekki. Skilningur

á eðli frummyndanna en ekki skynjun hlutveruleikans er því að dómi Platós grundvöllur sannrar þekkingar.

En hvaða sönnun er fyrir því, að hinn innri veruleiki Platós, sé ekki ímyndun ein, að frummyndir hans séu ekki í raun og veru hugarfóstur heimspekingsins og rökfræðilegt afkvæmi jarðneskrar skynjunar og veraldlegrar reynslu? — Engin sönnun, sem byggð er á skoðunum, sem grundvallast á skynjun og reynslu, er hér neins virði. Slíkar skoðanir geta hvorki sannað né afsannað neitt, sem er þeim æðra. Svar Platós er, að heimspekileg rökhyggja geri hinn æðri veruleika andans aðeins sennilegan: — Rökrétt hugsun segir okkur að um þekkingu geti aðeins verið að ræða, þar sem hugsun og veruleiki mætast og svara hvort til annars. Hugtök eins og fegurð, sannleikur og góðleiki, segir Plató, hljóta raunverulega að vera til utan mannsins. Ef þessi samsvörun hugsunar og veruleika (í hinni platónsku merkingu orðsins) er ekki fyrir hendi, hlýtur hins vegar sönn þekking að vera óhugsandi. Sjálf úrslitasönnunin fyrir því að þessi innri veruleiki sé raunverulega til, verður þó ekki fengin með öðrum hætti en þeim, að maðurinn sjái með innri sjónum sínum hina háu sýn andlegs veruleika, en í því er hin æðsta þekking fólgin.

Plató birtir lokaniðurstöður þekkingarfræði sinn-

ar i lokakafla VI. bókar i „Ríkinu“. Þar táknar hann þekkingu manna með lóðréttu striki, sem hann siðan skiptir í fjóra hluta, eftir því á hvaða stigi þekkingin stendur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þekking | Andleg sjón: hreinar hugsanir, óháðar skynjun skilningarvitanna | A | Ríki andans; frummyndir |
| Þekking | Stærðfræðileg rökhyggja | B | |
| Skoðanir | Skoðanir | C | Hlutveruleikinn |
| Skoðanir | Blekkingar | D | Skuggar, myndir |

Lægsta stigið (D) nefnir Plató blekkingar. Þessi lægsta tegund mannlegra skoðana byggist á hillingum, spegilmyndum og skuggum. Þær eru aðeins ímyndun og getgátur. Samt eru þær ekki algjörlega rangar. Þegar bezt lætur gefa þær mynd að vísu ófullkomna af hinu raunverulega, líkt og skuggi hlutar veitir nokkra fræðslu um hlutinn, sem hann er af, og hillingar endurspegla veruleika með nokkrum hætti. Hliðstæðar þessum skoðunum og i sama flokki eru viðteknar imyndanir og hindurvitni, — eða misskildar og rangtúlkaðar kenningar, sem afmyndazt hafa í meðförum kynslóðanna og orðið að skugga

þeirra sanninda, sem þær upphaflega boðuðu.

Næsta stig (C) nefnir Plató skoðanir, en það orð notar hann um báða lægri flokkana. Hér er um að ræða skynjun skilningarvitanna og reynsluþekkingu okkar á hlutveruleikanum. Í Timaeus bendir Plató á, að öll náttúruvísindi séu í þessum flokki. En þessi þekking, sem byggist á skilningarvitunum, er ekki sönn þekking, þar sem hlutveruleikinn er ófullkominn og oft villandi skuggi hins sanna veruleika. Engar hugmyndir eða skoðanir þessara tveggja stiga geta því talizt sönn þekking — jafnvel þótt eitthvað af þeim kynni að reynast rétt.

Þriðja stigið er stig skilningsins, sem fæst við rökræn orsakasambönd og stærðfræðileg hugtök, sem ekki byggjast á skynjun. Þetta stig er upphaf hins eiginlega skilnings og dögun þekkingarinnar. Plató bendir þó á, að stærðfræðin byggist í raun og veru ekki á sjálfsönnuðum staðreyndum, heldur á ósönnuðum staðhæfingum. Þessar vafasömu staðhæfingar eru síðan gerðar undirstaða hinnar stærðfræðilegu rökvísi. Þetta stig (B) er þannig ekki hin fullkomna þekking.

Hæsta stigið (A) er stig hinnar hreinu heimspeki. Hún er innsæisþekking, sem sameinar rökvísi þriðja stigsins andlegri sjón hins fjórða. Andleg sjón er að sjá frummyndirnar, ríki andans. Og „díalektíkin“,

hin rökrétta heimspekilega hugsun, fær manninn til að skilja samband frummyndanna við „Hið góða", skilja samband þeirra innbyrðis og tengsli þeirra við jarðneska náttúru. Hér styðst maðurinn ekki lengur við ytri skynjun, en igrundar hin algildu innri sannindi lífsins.

Eins og sjá má af þessari mynd Platós af hinni fjórskiptu linu, þá ríkir þrátt fyrir allt sami veruleiki (frummyndirnar) á öllum þessum fjórum sviðum. Hlutveruleikinn er aðeins skuggi frummyndanna og hillingarnar skuggi hlutveruleikans. Í „Ríkinu" í bók VII bregður Plató upp nýrri táknmynd sem sýna á enn betur merkingu hinnar fjórdeildu línu. Hún sýnir hvernig veröld mannsins breytist eftir því á hverju hinna fjögurra stiga hann stendur. Í þeim kafla úr „Ríkinu", sem hér fer á eftir sést, að veröld andans er hliðstæð hinum sýnilega heimi: „Hið góða" er hliðstætt sólinni. Eins og sólin er lind ljóssins og náttúrunnar, eins er „Hið góða" lind sannleikans og hins innri veruleika. Eins og ljósið og náttúran eru viðfangsefni skilningarvitanna, eins eru frummyndirnar viðfangsefni hugans og grundvöllur þekkingarinnar. Hinn bundni fangi í hellinum táknar þann, sem stendur á lægsta þrepi mannlegra vitsmuna, (D). Hinn leysti fangi er kominn upp á stig C. Sá, sem kominn er út úr fangelsi sínu og skoðar skuggana

utan hellisins, stendur á stigi B. En sá, sem horfir á hlutina sjálfa í veröldinni fyrir utan hellinn, táknar þann sem náð hefur andlegri sjón. Og sá sem horfir á sólina táknar þann sem skilið hefur „Hið góða", hina æðstu frummynd, sem er hinn innsti guðdómur.

## *Dæmisagan um hellinn.*

Sókrates segir frá: — „Og nú" sagði ég, „ætla ég að segja ykkur dæmisögu um mannlega þekkingu: — „Djúpt í jörðu liggur hellir einn og frá botni hans löng og brött brekka að hellismunnanum og dagsbirtunni. Hér hafast við menn, sem verið hafa fangar í þessum helli frá barnæsku. Þeir eru hlekkjaðir um háls og fætur, svo að þeir meiga sig hvergi hræra og geta aðeins horft beint fram fyrir sig. Að baki þeirra og upp yfir þeim logar eldur, og milli eldsins og fanganna liggur vegur. Og fyrir framan þá er reistur tjaldveggur, svipaður þeim, sem notaðir eru við leiksýningar í brúðuleikhúsum."

„Ég skil," sagði Glaukon.

„Og á bak við þá fara menn eftir veginum, menn sem bera alls konar hluti, þar á meðal líkneski manna og dýra, sem gerð eru úr grjóti, tré eða öðru

efni. Sumir þessara manna tala eins og gengur, en aðrir eru þöglir."

„Þú bergður upp undarlegri mynd, og þessir fangar eru harla kynlegir."

„Þeir eru eins og við," svaraði ég. „Því geta þessir fangar séð nokkuð af sjálfum sér, eða þeim, sem um veginn fara, annað en skuggana, sem eldurinn varpar á hellisvegginn fyrir framan þá?"

„Hvernig ættu þeir að geta séð nokkuð annað, ef þeir geta aldrei hreyft höfuðið?"

„Og geta þeir séð nokkuð annað af því, sem um veginn fer?"

„Vitanlega geta þeir það ekki."

„Og ef þeir gætu talazt við, myndu þeir þá ekki vera sammála um, að skuggarnir, sem þeir sæju, væru raunverulegir hlutir?"

„Vafalaust."

„Og ef fangelsisveggurinn fyrir framan þá bergmálaði tal vegfarendanna, heldurðu þá ekki, að þeir myndu álykta að þetta væru raddir skugganna á veggnum?"

„Þeir hlytu að halda það."

„Og þannig mundu þeir trúa því, að skuggarnir væru á allan hátt raunverulegir?"

„Já, óhjákvæmilega."

„Hvað heldur þú þá að gerðist, ef þeir væru leystir

úr hlekkjum sínum og leiddir frá villu sinni? Gerum ráð fyrir að einn þeirra væri leystur og látinn rísa á fætur og knúinn til að snúa sér við, horfa fram og ganga í átt til eldsins. Þessi umskipti yrðu honum full sársauka og hann fengi ofbirtu í augun við að horfa beint á þá hluti, sem hann áður sá aðeins skuggann af. Og ef honum væri sagt, að það sem hann hefði séð áður væri aðeins blekking og hann væri nú nær veruleikanum og skynjun hans sannari, af því að nú sæi hann hlutina sjálfa, og ef hann ennfremur væri beðinn að nefna hvern einstakan hlut sem hann sæi, heldurðu þá ekki að honum yrði svarafátt og halda, að það sem hann var vanur að sjá væri raunverulegra en það sem honum nú væri bent á?“

„Miklu raunverulegra.“

„Og ef hann væri látinn horfa beint í ljóma eldsins, myndi hann ekki svíða í augun og hverfa aftur til þeirra hluta, sem hann gæti séð, hluta sem hann héldi að væru raunverulega miklu skýrari en það sem honum var sýnt?“

„Já.“

„Og ef,“ hélt ég áfram, „hann væri dreginn með valdi upp bratta og grýtta brekkuna og ekki sleppt fyrr en hann hefði verið leiddur út í sólskinið, myndi sú för ekki sársaukafull og honum lítt að skapi, og

þegar út í sólskinið væri komið myndi hann þá ekki fá slíka ofbirtu í augun að hann gæti ekki séð neitt þeirra hluta, sem honum nú væri sagt að væru raunverulegir?“

„Vissulega ekki fyrst í stað,“ viðurkenndi hann.

„Yrði hann ekki fyrst að venjast ljósinu, áður en hann gæti greint veröldina fyrir utan hellinn. Og þætti honum ekki í fyrstu auðveldast að horfa á skuggana, því næst á mynd manna og hluta speglast í vatninu og loks á hlutina sjálfa. Yrði honum ekki eftir það auðveldara að horfa á himintugl, á mána og stjörnur á himni næturinnar, en að horfa í sólarljósið að degi til?“

„Það segir sig sjálft.“

„Og gæti hann ekki síðast af öllu horft beint í sólina og skoðað hana sjálfa, eins og hún er, í stað þess að horfa á mynd hennar í vatninu?“

„Það hlyti að gerast síðast.“

„Mundi hann ekki seinna komast að þeirri niðurstöðu, að það sé sólin, sem veldur breyttum árstíðum og stjórni öllu í hinum sýnilega heimi, — og sé í vissum skilningi orsök alls þess, sem hann og samfangar hans voru vanir að sjá?“

„Augljóslega hlyti hann að komast að þessari niðurstöðu.“

„Og þegar hann hugsaði um fyrri heimkynni sín,

og það sem þar var álitið þekking, og um samfanga hans, heldur þú þá ekki, að hann teldi sig gæfumann og harmaði hlutskipti hinna?“

„Það myndi hann svo sannarlega gera.“

„Og ef það nú tíðkaðist hjá þessum föngum, að veita þeim frægð og sýna þeim virðingu, sem skarpskyggnastir væru á þessa skugga og beztir í að muna í hvaða röð þeir birtust, og þess vegna snjallastir i að segja fyrir um hverjir kæmu næst, mundi þá þessi leysti fangi keppa eftir slikri frægð, eða öfunda þá af þessari gáfu eða þessum heiðri? Er ekki líklegra að hann segði með Hómer: „Fremur þræll hjá þurrabúðarmanni“ — eða hvað sem væri annað en að lifa og hugsa eins og þeir?“

„Já,“ svaraði hann, „hann kysi allt fremur en að lifa eins og þeir.“

„Hvað heldur þú þá að gerðist,“ spurði ég, „ef hann sneri aftur inn i hellinn og settist í sitt fyrra sæti?“ Mundi myrkrið ekki blinda hann, vegna þess að hann kæmi skyndilega þangað inn utan úr dagsbirtunni?“

„Vitanlega.“

„Og ef hann yrði að keppa við hina fangana um að greina sundur skuggana, meðan hann væri blindaður og augu hans enn óvön myrkrinu, — en það gæti varað nokkurn tíma, — myndu þeir þá ekki

hæðast að honum? Og myndu þeir ekki segja, að för hans til hins efri heims hefði gert hann blindan, og að það borgaði sig engan veginn að leggja á brattann? Og ef einhver skyldi gera tilraun til að leysa af þeim hlekkina og leiða þá upp í ljósið, myndu þeir þá ekki reyna að drepa hann, ef þeir gætu?"

„Það myndu þeir vissulega reyna," svaraði Glaukon.

## *Röð vísindanna.*

„Hvaða fræði þurfa menn að nema til að hugur þeirra beinist til hins raunverulega og frá heimi hverfulleikans?" lætur Plató Sókrates spyrja. (Ríkið, bók VII). Hvaða fræði geta lyft manninum frá stigi skoðana, (C), upp á svið rökfræðilegrar og heimspekilegrar þekkingar, (B og A). sem svar við þessari spurningu nefnir Plató fimm stighækkandi vísindi.

1. Lægst þessara fræða er reikningslistin. Reikningslistin hefur þann kost að nota hugtök, sem eru óháð skynjun skynfæranna og leiðir því manninn fyrsta skrefið frá skynjun til skilnings.

Plató ætlast til að menn velti fyrir sér hinni heim-

spekilegu merkingu talnanna. Hvert er t. d. eðli eindarinnar? Allt er samsett úr hinu eina. Hið eina birtist ýmist sem eining eða fjöldi. Slíkar hugsanir fá menn að áliti Platós til að fara að hugleiða hina innstu einingu, ljósið að baki allra lita. Reikningslistin gegnir ekki því hlutverki, sem Plató ætlar henni ef hún er aðeins stunduð vegna hins hagnýta gildis. Fyrst þegar hún er stunduð vegna þekkingarinnar leiðir hún til hins andlega lífs.

2. Flatarmálsfræðin er næsta viðfangsefnið. Hugtök eins og ferhyrningur eða hringur eru sígild hugtök eilíf og óumbreytanleg. Þau beina því huganum í enn ríkari mæli frá hinum hverfula heimi skilningarvitanna til algildra hugtaka til hins óumbreytanlega að baki hins hverfula.

3. Áður en hægt er að hefja nám í stjörnufræði, telur Plató rétt að stunda þau vísindi sem fjalla um hluti í þremur víddum, þ. e. a. s. rúmmálsfræðina. Hið hagnýta gildi allra þessara fræða er viðurkennt, en í augum Platós eru þau fyrst og fremst áfangar á skilningsleið mannsins, sem liggur til hinna æðstu gæða.

4. Stjörnufræðin. Tilgangur Platós er enn hinn

sami. Viðfangsefni hans er ekki það eitt að kortleggja himininn og gang himintungla, heldur kanna þau lögmál sem þeim stjórna, eða stjarneðlisfræði. Hún leiðir manninn frá jörðinni út á braut hins eilífa og fær anda hans til að nálgast leyndardóm hins himneska samræmis, — „hinn æðsta ósýnilega veruleika“.

5. Tónfræðin. Þessi fræði byggjast á hljómvísindum Pýþagóringa. En Plató leitar hér sem annars staðar hinnar dýpri merkingar, lögmálanna að baki tóns og hreyfingar. Hann er ekki fyrst og fremst að hugsa um þá tóna, sem eyrað heyrir, heldur hina sem andinn nemur: nið eilífðarinnar og söng lífsins, dulin lögmál hins alheimslega samræmis.

Þessi vísindi svara til þriðja hluta (B) hinnar fjórdeildu línu og þau eru aðeins undirbúningur undir efsta stigið (A), sem er hin eiginlega heimspeki, en hana kallar Plató „dialektik“. Hún sameinar öll vísindi og er samnefnari allrar sannrar þekkingar, að svo miklu leyti sem hún er á færi mannlegra vitsmuna. Fyrst á þessu stigi nær maðurinn andlegri yfirsýn yfir samhengi hinnar ytri og innri tilveru. Dialektíkin er sú þekking, sem leiðir að lokum til skilnings á hinum innsta veruleika, þótt um algjöran skilning geti aldrei orðið að ræða.

## *Samband anda og efnis.*

Skipting Platós á tilverunni í frummyndir (anda) og náttúru (efni) hefur verið nefnd platónsk tvíhyggja. Nafnið má þó auðveldlega misskilja af tveimur ástæðum. Í fyrsta lagi kennir Plató að frummyndirnar (andinn) séu hinn eini veruleiki, og í öðru lagi er „efni“ Platós ekkert af því sem við köllum efni. Sannleikurinn er sá, að það „ginnungagap“ sem Plató telur að hafi ríkt í árdaga áður en andinn skapaði náttúruna er hvergi fyllilega skilgreint í ritum hans. Gordionshnúturinn, sem höfundur frummyndakenningarinnar verður að leysa er þessi: Guð og Hið góða er eitt. Hið góða, sem er hinn eini veruleiki getur aðeins skapað hið góða. Hvernig getur þá hið góða eilífa og óumbreytanlega alið af sér ófullkomna veröld hins stundlega og hverfula? Hvert er samband hins andlega heims við heim hins svokallaða veruleika? — Frummyndirnar (andinn) hafa að dómi Platós ekki skapað það ginnungagap sem hann nefnir „efni“. Ástæðurnar til þess eru tvær: 1) „Efnið“, segir Plató, er ekki-vera og það er óhugsandi að veran (frummyndirnar) geti fætt af sér ekki-veru,

(„efnið"). 2) Það er forsenda allrar sköpunar, að sköpunarmátturinn geti beinzt að einhverju öðru en sjálfum sér. — En hvað er þá þetta eitthvað, þessi leyndardómur, sem Plató kallar „efni"? — Það getur ekki verið jörð, vatn, eldur eða loft: — Höfuðskepnurnar eru allar sköpun andans að dómi Platós og andinn hefur ekki skapað það sem hann kallar „efni". Það getur ekki heldur verið neitt sýnilegt eða áþreifanlegt: — Allir eiginleikar, lögun og litir eru sköpun frummyndanna. Með öðrum orðum það sem Plató kallar „efni" á ekki við um neitt af því sem við köllum efni. Aristóteles, sem stundaði nám við Akademíu Platós í 20 ár segir, að „hið platóniska efni merki rúm". Þetta er mjög sennilega rétt. En Aristóteles er þögull um hvað Plató hefur talið eðli þessa rúms eða ginnungagaps, sem hann kallar „efni". „Efnið" virðist ekki aðeins merkja rúm, heldur einnig hið ósýnilega, óskilgreinanlega „efni", sem hin sýnilega veröld er gerð úr. Ef til vill er „efni" Platós í ætt við kenninguna um tamas í Samkhya-heimspekinni, — en þar er sett fram kenningin um ósýnilegan efnisheim, sem hin sýnilega veröld er gerð úr. Sú kenning var þekkt meðal heimspekinga á tíð Platós.

„Efni" Platós er því eilífðarfyrirbrigði. Án áhrifa andans er það að vísu óskilgreinanlegt, formlaust og ósýnilegt. Sköpun frummyndanna gefur því alla þá

eiginleika og allar þær myndir sem birzt geta í náttúrunni.

En með þessu er ekki öll sagan sögð. Ginnungagap Platós virðist búa yfir dularfullum mætti til að afmynda sköpun guðs, mætti til að kljúfa ljós andans í litbrigði jarðarinnar. Það er ekki aðeins skilyrði sköpunarinnar heldur einnig versti óvinur hennar. Það er tregðan sem veitir hinum skapandi mætti viðnám og er orsök alls hins illa í heiminum. Hið illa er fjarvera hins góða. Þar sem andinn og „Hið góða" er fjarverandi ríkir svefninn, heimskan og ljótleikinn. „Efnið" er dauðinn í baráttu við hið skapandi líf, óskapnaðurinn í baráttu við andlega fegurð, hið illa í baráttu við hið góða. Barátta andans er virk. — Mótstaða „efnisins" er óvirk. „Efnið" er því í eðli sínu skilyrði sköpunarinnar og verkefni andans, verkefni sem hann leitast við að ná tökum á, en hið óvirka „efni" leitar stöðugt hins fullkomna jafnvægis dauðans, og leitast við að eyða sköpunarverkum guðs.

Frummyndirnar eru skapandi máttur og vilji sem gerir innrás úr óþekktum víddum út í tómið og skapar þar fjórvíddartilveru okkar „efnisheims". Lífið og andinn nema nýtt land í ríki dauðans. Í þessu ginnungagapi skapa frummyndirnar eftirmynd sína, hina sýnilegu og áþreifanlegu veröld: Kosmos (ver-

öldin) er þannig afkvæmi andans og „efnisins“. Þessi Kosmos er ímynd hins ósýnilega guðdóms, — og hann er sjálfur guð í sköpun, hinn verðandi guð.

Guðdómurinn byrjaði sköpun Kosmos með því að umskapa „efnið“ í samræmi við þarfir og gerð hins verðandi heims. Hinu eina ósýnilega frumefni breytir hann í mörg, gerir efnið sýnilegt og áþreifanlegt og gefur því eiginleika og lögun. Hann skapar höfuðskepnurnar jörð, vatn, loft og eld, sem eru líkami Kosmos. Guðdómurinn skapar síðan fastastjörnur, plánetur og jörðina og hina himnesku anda eða guði sem stjórna hverjum hnetti og þeir skapa aftur að vilja guðdómsins náttúruríkin, — hina óæðri náttúru.

Kosmos hefur líkama, vilja og sál. Líkami hans stjórnast af ákveðnum lögmálum. Hann er fullkominn og fegursta verk sköpunarinnar. En hann er ekki gæddur eilífðareðli frummyndanna. Örlög hans eru í hendi guðdómsins.

Vilji Kosmos birtist sem tilgangur allra hluta. Hann skipuleggur veröldina og samræmir efnislegar orsakir lögmálsins, hinum andlega tilgangi guðs.

Sál Kosmos, heimsandinn, er tengiliður milli guðdómsins (frummyndanna) og veraldarinnar. Hún er í allri veröldinni og er orsök allrar hreyfingar samræmis og fegurðar. Hún er lífið og andinn, — veröldin og guðdómurinn.

Í „Timaeus“ ræðir Plató um hinar fjórar orsakir allrar sköpunar.

1) Demiurge eða guð er sagður uppspretta máttarins og orsök allra hræringa í náttúrunni og sál mannsins. En þessi guð er raunar ekki persónulegur guð heldur ópersónulegur guðdómur. Hann er ekki skapari heimsins, þar sem bæði andi og „efni“ er eilíft og óskapað. Hann er heimssmiðurinn sem vinnur úr fyrirfram gefnu efni og mótar það eftir hinum andlega heimi. Verk hans er að breyta Kaós í Kosmos.

2) Frummyndirnar, sem eru sagðar hinn eini eilífi veruleiki sem heimur fyrirbrigðanna er mótaður eftir.

3) „Efnið“ er einnig óskapað. Andinn eða guðdómurinn hefur ekki náð fullum tökum á „efninu“, því að vegna tregðu þess er hið ófullkomna til í heiminum. Það eitt er orsök hins illa.

4) Hin fjórða af hinum eilífu orsökum veraldarinnar er hin æðsta frummynd, „Hið góða“. Hún er æðst í ríki andans og hin eilífa sól tilverunnar.

En ef „Hið góða“ er hinn algeri grundvöllur, hvað er þá guð? — Plató talar ýmist um guð eða guði:

Hann kallar hinn sýnilega alheim (Kosmos) guð i sköpun, hann talar um smið heimsins, Demiurge, sem hinn eilífa guðdóm, og hann kallar fyrstu sköpun Demiurge einnig guði, og segir að þeir taki að sér stjórn hnatta og náttúruríkja. Við þetta bætast svo guðir trúarbragðanna. Ekki verður annað séð, en Plató eigi við hið sama, þegar hann talar um æðstu frummyndina, „Hið góða", og guð. Guð, heimssmiðurinn, er aðeins skáldlegur persónugerfingur „Hins góða" og þetta tvennt er eitt og hið sama. Þetta sést bezt þegar athugað er hvaða eiginleika Plató eignar guði (Demiurge) og „Hinu góða":

„Hið góða" segir Plató er lávarður hins andlega heims, eins og sólin er æðst i hinum sýnilega heimi. Guð (Demiurge) segir Plató er hinn æðsti dómari sem stjórnar upphafi, framrás og endi allra hluta. Frummynd hins góða er sögð höfundur alls hins sanna, fagra og góða í veröldinni. Guð er einnig sagður hin eilífa orsök hins fagra, góða og sanna. Loks er „Hið góða" sagt vera lind allrar sannrar þekkingar, og guð er einnig sagður lind hinnar æðstu vizku. Þetta sýnir að hjá Plató er guð og „Hið góða" eitt.

Nánari athugun á þremur þessara fjögurra orsaka veraldarinnar leiðir því í ljós að þær renna saman í eina. Demíurge, „Hið góða" og frummyndirnar eru

eitt, — hin andlega orsök. — Og hin efnislega orsök er óæðri veruleiki, sem án sköpunar andans er ekki-vera, formlaus og efnisvana í hinni venjulegu merkingu þess orðs. Þannig er orsök heimsins í raun og veru aðeins ein: Andinn.

## *Sálfræði Platós.*

Í mannssálinni eins og heimssálinni sameinast hinir dauðlegu og hinir eilífu eðlisþættir lífsins. Í sinu rétta og *eilífa* eðli er sálin þó ein og óskipt. Þannig er ástand hennar þar sem hún dvelur i himnaríki frummyndanna áður en hún iklæðist jarðneskum líkama og þannig verður ástand hennar eftir að hún hefur losnað úr fjötrum efnisins.

Eftir að hún er borin til jarðarinnar sameinast hún hins vegar stundlegum eðlisþáttum sem hæfa jarðneskri tilveru hennar, en þeir eðlisþættir verða aldrei gæddir eilifðareðli, þeir skapast og eyðast eins og allt i veröld fyrirbrigðanna. Þessi tvihyggja er beint framhald af þekkingarfræði Platós þar sem greint er milli skoðana, sem byggjast á skilningarvitunum og sannrar þekkingar sem byggist á andlegri sýn sálarinnar. Öll sönn þekking manna að dómi Platós er aðeins endurvakning þess sannleika sem sálin þekkti i fyrri tilveru er hún bjó á himni sinum.

Þegar Plató ræðir um þriskiptingu sálarinnar á hann eingöngu við það ástand sem hún er i meðan hún er háð hinni lægri náttúru þessa heims eða

annars, — ástand hinnar ófrjálsu sálar, sem háð er endurfæðingum.

Lægstu eðlisþættir sálarinnar eru girndir. Kynnautn, fégræðgi og óhóf í mat og drykk er æðsta gleði þess manns sem stjórnast af skynfýsn.

Ofar girndum taka við þeir eðlisþættir, sem Plató nefnir einu nafni skap. Það er millistig milli skilnings og girnda, sambland vilja og tilfinninga sem sagðar eru eiga aðsetur sitt í hjarta mannsins. Þessir eðlisþættir eru metnaður, hugrekki, heilög vandlæting og réttlát reiði. Gleði þess manns, sem stjórnast af þessum þáttum sálarinnar, er að klifra virðingarstiga mannfélagsins og njóta viðurkenningar fjöldans, vera frægur og heiðraður af þjóð sinni.

Æðsti og innsti kjarni sálarinnar, og sá eini sem gæddur er eilífðareðli er skilningurinn, hin andlega sýn. Sannleikurinn, hin sanna þekking, er aðeins eign þessarar hreinu sálar. Aðrir eiginleikar, sem Plató eignar hinni eilífu sál eru göfgi, auðmýkt og lotning. Öll lífsnautn er hér endurborin í nýrri og fullkomnari mynd. Hin æðsta gleði þess manns sem lætur stjórnast af þessu innsta eðli sínu er skilningsgleði og sköpunargleði. Takmark mannsins er að lúta þessu æðsta eðli og lifa hvorki í fortíð, nútíð eða framtíð heldur í eilífð. Þessi þrjú svið, girndir, skap og skiln-

ingur, blandast að nokkru saman, en þó getur aðeins eitt verið hið ríkjandi afl í sál mannsins hverju sinni.

Eins og fyrr segir kennir Plató, að sálin eigi sér fortilveru og lifi eftir líkamsdauðann. Þetta verður ekki sannað á grundvelli efnislegra vísinda, vegna þess að í veröld efnisins geta ekki verið til neinar fullnaðarsannanir um eðli andans. Sanna þekkingu öðlast menn aðeins fyrir andlega innri reynslu. Samt leiðir Plató fram margvísleg rök fyrir eilífðareðli sálarinnar. Fyrst teflir hann fram tveimur „epistemólógiskum“ röksemdum: 1) Við getum aðeins skilið það eitt, sem á sér einhverja hliðstæðu í okkur sjálfum. Sálin getur að nokkru leyti a. m. k. skilið hinn eilífa anda. Hún getur skilið hinar eilífu og hreinu frummyndir í ríki andans. Sálin hlýtur því að einhverju leyti a. m. k. að vera eins og þessar frummyndir, það er að segja, hrein og eilíf.

2) Við búum yfir þekkingu sem er óháð skynjun okkar. Minni sálarinnar, vitað og dulvitað, og þekking sem hún getur ekki hafa aflað sér í þessu lífi sannar fortilveru hennar, að dómi Platós. — Og hvers vegna skyldi hún þá ekki einnig lifa eftir líkamsdauðann? Þessu næst leggur Plató fram „metafysiskar“ röksemdir:

3) Hin hreina og frjálsa sál mannsins er ein og óskipt. Henni verður ekki deilt í mismunadi hluta.

Hún verður því hvorki sköpuð með samsetningu né verður henni eytt með upplausn eða sundurgreiningu. Hún getur því hvorki skapazt né eyðzt og er því eilíf.

4) Veran getur aldrei breytzt í ekki-veru. Sálin er uppspretta og undirstaða lífsins. Hún er því sjálfur kjarni verunnar. Það væri mótsögn að ætla að sjálf uppspretta lífsins gæti orðið dauði, og veran gæti breytzt í ekki-veru.

5) Allar langanir manna og dýra beinast að einhverju, sem hægt er að fá. Æðsta þrá mannsins er heimþráin til hins eilífa og fullkomna í ríki andans. Hvers vegna ætti þá hin æðsta og ákafasta þrá mannsins að beinast að einhverju sem aldrei er unnt að öðlast?

6) Sálin getur stjórnað líkamanum. Ef sálin er aðeins afleiðing líkamsstarfseminnar, ef hún er aðeins hljómur af strengjum líffæranna, hvernig gæti hún þá stjórnað líkamanum? Hljómar fiðlunnar stjórna ekki strengjum hennar heldur fiðlarinn sem á þá leikur. Og Plató leggur einnig fram siðferðilegar röksemdir:

7) Hvernig er hægt að framfylgja hinu alheimslega réttlæti, nema því aðeins að sálin geti uppskorið það annars heims sem sáð var til á jörðu?

Í heild sinni eru röksemdir Platós fyrir eilífð sál-

arinnar svo margvíslegar að nær allt sem um þetta mál hefur síðar verið sagt í bókmenntum Vesturlanda hefur verið sótt í smiðju hans. En Plató bendir á, að þessar röksemdir geti ekki eðlis síns vegna verið sama og fullnaðarsönnun, því að hún fæst aðeins með andlegri sýn og innri reynslu.

## *Siðfræðin.*

Siðfræði Platós byggist á frummyndakenningu hans. Spurningunni um gildi og tilgang mannsins er svarað á sama veg og spurningunni um gildi og tilgang lífsins og veraldarinnar: Guð er hið góða, sanna og fagra og fullkomnun mannsins er í því fólgin að öðlast þessa andlegu eiginleika.

Þetta er hið algilda svar, sem á jafnt við um einstaklinginn og mannfélagið í heild. Lokatakmark náttúrunnar er maðurinn og lokatakmark mannsins er guð. Því takmarki nær hann með því að efla skilning sinn, lifa í andlegri fegurð og leysa sál sína frá villu skynfæranna: „Við ættum að fljúga burt frá þessari jörð eins fljótt og við getum, og að fljúga burt er að verða eins og guð.“ En fyrr en þessari fullkomnun er náð, losnar enginn við jörðina.

Fullþroska sál er hin æðstu gæði og um leið hin mesta hamingja mannsins. — Öll siðfræði miðar að mannrækt. Það sem einkennir mannhugsjón Platós er hófsemi, hugrekki og vitsmunir: Hin æðsta dyggð andans er rétt hugsun, hin æðsta dyggð hjartans er hugrekki og hin æðsta dyggð hvatanna er hófsemi. En aðeins æðsti hluti hinnar þrískiptu sálar ríkir í

hinum fullkomna. Hina tvo óæðri, geð og girndir, á ekki aðeins að hemja, þær eiga um síðir algjörlega að missa vald sitt yfir manninum. Hinn sjáandi andi sálarinnar er forsjón hennar allrar, einnig skaps og hvata. Honum ber því að stjórna, en þeim að hlýða boðum hans. Sá einn er þetta gerir breytir viturlega. Skapið hættir þá að stríða gegn andanum og veitir honum aðeins aukinn mátt. Hvatirnar hætta þá að blinda hann, og hófsemin gerir hann hreinan. Sálin verður fullkomin þegar hinir þrír hlutar hennar sameinast í einingu andans. Þá er hið góða orðið eðli mannsins og verk hans geta aðeins verið góð.

Sú heimsafneitun og krossfesting holdsins, sem boðuð var af kristinni kirkju á miðöldum sækir hingað rök sín. — Þessi siðfræði Platós er þó ekki i sjálfu sér meinlætakenning, sem krefst þess, að maðurinn hafni gleði sinni og afneiti hamingjunni. Þvert á móti telur Plató gleði andans óendanlega meiri hamingju en hverfular nautnir hinnar lægri náttúru. Maðurinn á ekki að berjast gegn hinu lægra heldur stuðla að birtingu hins æðra. Gleði hvatanna gleymist og hún hverfur af sjálfu sér eins og fölar stjörnur í ljósi morgunsins, vegna þess að gleði andans er henni margfalt meiri. En þá gleði getur maðurinn ekki þekkt, meðan hann stjórnast af hvötum sínum og þekkir ekkert sælla en hina jarðnesku paradís.

## *Stjórnmál.*

Maður og ríki eru tvær hliðstæður. Þekking okkar á manninum er röng ef við þekkjum ekki þá heild sem hann er hluti af, — ríkið.

Stjórnmál eru þvi einn veigamesti þátturinn í ritum Platós og þau verða hvorki greind frá siðfræði hans né annarri heimspeki. Maðurinn getur ekki þroskazt i einangrun, hann nær aðeins tilgangi sinum i samfélagi við aðra menn. Hann getur ekki sigrað sem einstaklingur, — aðeins í samvinnu við heildina. Og hinn æðsti tilgangur mannsins er siðferðileg fullkomnun. Hin fullþroska sál er hin æðstu gæði lifsins og um leið hin æðsta hamingja. Einstaklingurinn verður því að samræma hag sinn hagsmunum heildarinnar, því þannig er honum sjálfum bezt borgið. Tilgangur þjóðfélagsins á að vera sá að leiða manninn til þeirrar fullkomnunar sem um leið er hin mesta hamingja. Plató kennir ekki að maðurinn sé til vegna ríkisins, heldur þvert á móti, rikið er til vegna mannsins og allt fyrirkomulag þjóðfélagsins á að miðast við þarfir einstaklingsins. Hið fullkomnasta riki er það sem fóstrar flesta fullkomna einstaklinga. Engin lög og ekkert stjórnskipulag þarf

fyrir fullþroska menn. En þar sem fáir eru fullkomnir verður að setja mönnum lög til að tryggja þeirra eigin velferð. Ríkið verður þannig til vegna þess, að maðurinn er ekki sjálfum sér nægur, vegna þess að mannleg náttúra er ófullkomin. Það byggist á samhjálp og samvinnu einstaklinga.

Hver maður verður að leggja fram sinn skerf til ríkisins með því að vinna þau störf sem hann er hæfastur til.

Eins og fyrr segir er mannfélag Platós hliðstætt mannssálinni. Í ríkinu er mönnum skipt í þrjár stéttir. Fer sú skipting eftir því hver hluti hinnar þrískiptu sálar stjórnar þeim. Þeir sem stjórnast af andlegu innsæi eiga að mynda yfirstéttina. Þá nefnir Plató heimspekinga eða heimspekikonunga. Þeir eiga að vera hin sjáandi forsjón og hin raunverulega sál ríkisins.

Þeir sem stjórnast af skapsmunum eiga að vera stríðsmenn þjóðfélagsins, hið hugdjarfa og stolta hjarta landsins. Þetta er önnur stétt ríkisins og hún á að vera sverð þess og skjöldur. Í þriðju stétt eru þeir sem stjórnast af hinum lægri hvötum eða lægsta hluta sálarinnar. Þeirra hlutverk á að vera veraldleg þjónusta og framleiðsla hins daglega brauðs. Í þessum hópi telur Plató iðnaðarmenn, bændur, kaupmenn og þræla. — Því ríki er vel stjórnað, þar sem

hver maður fæst við það eitt, sem hann er hæfur til að leysa af hendi, og þar sem lágum hvötum fjöldans er haldið í skefjum með vísdómi hinna fáu vitru.

Plató leggur þennan mælikvarða ekki aðeins á einstaklinga heldur einnig á þjóðir. — Sem dæmi um fyrsta flokks þjóð, sem einkennist af menningu og stjórn hinna vitrustu nefnir Plató Grikki. Sem dæmi um annars flokks þjóð, sem einkennist af hugrekki, skapsmunum og baráttu nefnir Plató barbara norðursins. Sem dæmi um þriðja flokks þjóð, sem einkennist af kaupmennsku og auðhyggju nefnir hann Fönika.

Í draumsýn sinni um hið réttláta þjóðfélag sér Plató ríkið sem eina samræmda heild, þar sem engir árekstrar eru milli manns og manna.

Ríkið er stór fjölskylda. Þar má enginn einstakur eignast mikinn auð, því að auðurinn er vald og auðurinn getur orðið verstur og lægstur allra harðstjóra. Allar eigur eiga því að vera sameign þegnanna. Og Plató gengur lengra. Í þessari stóru fjölskyldu segir Plató í „Ríkinu“ eiga konur og börn einnig að vera sameign meðal hærri stéttanna. Börnin eru alin upp af ríkinu, sem sér um menntun þeirra frá fyrstu tíð. Hjónabönd eru að vísu viðurkennd en þau eiga að standa stutt, og mega ekki verða varanlegur „hyrningarsteinn þjóðfélagsins.“

Þjóðfélag Platós er fyrst og fremst skóli. Þar á að móta barnið alveg frá fyrstu tíð og innræta því hugsjónir hins fagra, góða og sanna. Þetta gildir jafnt um bæði kynin. Fyrstu þrjú árin er uppeldið eingöngu fólgið í því að efla heilbrigði og hreysti barnsins. Á aldrinum 3—6 ára hefst strax hið siðferðilega uppeldi. Fyrsta sporið er að breyta þeim helgisögnum, hetjusögum og ævintýrum, sem börnum eru sögð á þessum aldri: Í stað hinna gömlu, heimskulegu goðsagna sem fullar eru af ósannindum, ranglæti og illum hvötum manna, á að kenna börnum sögur og ljóð sem fela í einfaldleik sínum djúp og fögur sannindi, það á að segja þeim ævintýri sem vekja blundandi öfl og mynd hins fagra, góða og sanna í barnssálinni. Þannig er strax í bernsku lagður sá grunnur, sem siðferði, heimspeki og öll sönn menntun byggist á. Á aldrinum 7—10 ára leggur Plató megináherzlu á íþróttir og eflingu líkamlegrar hreysti.

Á aldrinum 11—13 ára er barninu ætlað að læra lestur og skrift. Frá 14—16 ára aldurs á ungmennið að stunda músík, það er að segja það á að læra skáldskap, nema tónmennt og kynnast myndlist. — Ekki svo að skilja að Plató geri sér háar hugmyndir um skáldskap og listir, nema þá helzt góða tónlist. — „Veruleikinn“ er, eins og fyrr segir, aðeins skuggi

frummyndanna og listin skuggi veruleikans. Þannig verður myndlist okkar aðeins skuggi af skugga, leikritið eftirherma á eftirhermu og ljóðið bergmál af bergmáli. Listin getur bæði þjónað hinu illa og hinu góða. Hún getur aukið á ljótleikann, ósamræmið og vanskapnaðinn og hún getur líka þroskað fegurð og göfgi sálarinnar. Listir geta því gengt siðrænu uppeldishlutverki, og það á að vera hlutverk hennar i mótun mannsins á þessu aldursskeiði. En aðeins list, sem byggist á fegurð, góðleika og hinu sanna getur gegnt þessu hlutverki. Á aldrinum 16—18 ára á unglingurinn að nema stærðfræðivísindi og frá 18—20 ára aldurs er honum ætlað að þjálfa sig í hermannlegum íþróttum. Þetta er hin almenna menntun sem ætluð er bæði körlum og konum.

Að loknu þessu námi skal unglingunum skipt í hópa eftir því hvern árangur uppeldið hefur borið. Úrvalið á enn langt nám fyrir höndum, þvi að úr þessum hópi verða síðan allir valdamenn og leiðtogar þjóðfélagsins valdir. Í tíu ár á þessi hópur að brýna stál viljans, efla siðferðisþrek og hugrekki og honum er ætlað að fullkomna þekkingu sína í hinum 5 vísindagreinum og að skilja þessi fræði sem eina samræmda heild. Að þessum 10 árum liðnum fer enn fram nýtt val. Hinir tregari hætta námi og gerast opinberir starfsmenn ríkisins.

Hinir nýju úrvalsmenn eru þeir einu sem teljast færir um að stunda hina eiginlegu heimspeki. Plató segir: „Í dag eru þeir, sem þessi fræði stunda stráklingar naumast komnir af barnsaldri. Þeir fást við heimspeki, áður en þeir hafa numið einföldustu hluti, og hætta við hana aftur jafnskjótt og þeir þurfa að glíma við hin erfiðustu vandamál hennar. Samt eru það þessir menn sem þykjast útlærðir heimspekingar. Síðan þykjast þeir vinna mikil afrek með því að sækja heimspekifyrirlestra, sem þeim er boðið að hlýða á. Þeir halda að heimspeki sé aðeins tómstundagaman. Þegar þeir eldast slokknar ljós þeirra flestra eins og sól Herakleitosar, — og meira en það, því að eldur þeirra kviknar aldrei að nýju.“ — Þannig getur heimspeki aldrei orðið eign fjöldans, heldur aðeins fárra útvaldra. Þetta heimspekinám eiga hinir útvöldu að leggja stund á frá 30—35 ára aldurs. Eftir það eru þeir settir í skóla reynslunnar og næstu 15 árin verða þeir að sanna gildi sitt og getu með starfi í þjónustu mannfélagsins í stríði og friði þar sem reynir á mannvit og þekkingu, hugrekki og siðferðisstyrk. Í eldi þessa lokaprófs sést hvað er gull og hvað er hinn óæðri málmur. Þeir einir sem standast þetta próf eru hinir endanlega útvöldu leiðtogar ríkisins, heimspekikonungarnir eins og Plató nefnir þá. Eftir fimmtugt stunda þeir eingöngu hin æðstu

fræði, unz kall þeirra kemur og þeir taka að sér hin þýðingarmestu stjórnarstörf í þágu ríkisins.

Heimspekikonungurinn er eins og hinn frelsaði bandingi í sögu Platós um hellisbúana. Hann hefur yfirgefið skuggamyndir hellisins og er kominn upp til ljóssins. En ríkið sem annaðist uppeldi hans og kom honum til þroska á rétt á leiðsögn hans. Honum ber því siðferðileg skylda til að halda aftur niður í hellinn til hjálpar meðbræðrum sínum og að vísa þeim veginn frá myrkri til meira ljóss. Allur tilgangur mannsins er að þroska sál sína og stefna að því að hún verði fullkomin eins og frummyndirnar í ríki andans.

Heimspekikonungurinn gegnir hlutverki spámanns sem gefur sig heilan og óskiptan að þessari köllun sinni. Hann afsalar sér fjölskyldu og heimili. Hann má ekki einu sinni snerta gull eða silfur og hann afsalar sér öllum eignum, en ríkinu ber að sjá fyrir þörfum hans. Hann verður algjörlega að snúa baki við veraldlegum hégóma og halda fast við köllun sína. Hann má aldrei missa sjónar á hinu æðsta takmarki lífsins, að lifa ævintýrið mikla, — hinn andlega veruleika.

Ríki Platós er draumur um nýtt og fullkomið þjóðfélag. Plató vissi sjálfur að sá draumur gat aldrei rætzt að fullu. Enn hefur „heimspekikonungur“

Platós aldrei stjórnað ríki á jörðu hér. Og slíkir vitringar geta naumast orðið til meðal manna, þar sem vizkan er að sögn Platós eign guða fremur en manna. Plató skrifar síðar aðra bók, „Lögin", sem er endurskoðun á kenningum hans í „Ríkinu". Þar bendir Plató á að alræðisvald sé svo fjarlægt eðli mannsins að sá sem með það fer hlýtur að bíða tjón á andlegri heilsu sinni. Þar bendir hann á að vinátta og frelsi sé ekki síður mikilvægt en köld skynsemin. Allir borgarar eiga að njóta frelsis og taka þátt í stjórn ríkisins. Í „Lögunum" fellst Plató á að allir menn megi eiga jarðeignir, en er enn sem fyrr andvígur auðsöfnun og fésýslu. Kaupmennska á að vera í höndum þræla og útlendinga. Fjölskyldan er í „Lögunum" orðin viðurkennd stofnun. Hafa verður í huga, að ríki Platós er miðað við lítið borgríki og ýms stefnumál hans voru þegar komin í framkvæmd í Spörtu á hans tíð. Það er því ekki hægt að líta á þúsundáraríki Platós sem loftkastala eða draumóra. Margar af hugmyndum hans hafa verið reyndar og þær sem aldrei hafa verið nema hugsjón eru eigi að síður í fullu gildi. Hugsjónin um fullkomnun hefur orðið mönnum stjarna til að stýra eftir, — jafnvel þótt takmarkinu hafi aldrei verið náð.

## *Staða Platós.*

Viðfangsefni Platós er að endurskapa alla heimspeki samtíðar sinnar og fortíðarinnar í eitt voldugt kerfi og sameina það sem virðast andstæð sjónarmið og lyfta þeim um leið í æðra veldi. Í frummyndakenningu hans fylgir hann kenningu þeirra sem álíta að tilveran sé andlegur veruleiki — hugur og hugmyndir (idialismi).

Heimspeki Platós er *realismi* að því leyti, að þar er haldið fram að til sé veröld ofar hlutveruleikanum, óháð hugsun eða skynjun.

Heimspeki Platós er *rationalismi* að þvi leyti, að kennt er að andi mannsins geti þekkt raunveruleikann án skynjunar skilningarvitanna. Gildi skilningarvitanna og jarðneskrar reynslu liggur hins vegar í því að vekja gleymda eða dulvitaða (a priori) þekkingu sálarinnar.

Heimspeki Platós er algerlega andstæð *materialisma,* þeirri kenningu að efnið eitt sé veruleiki og allt sem til sé megi skoðast sem efnislegt form. Efnisheimurinn er í heimspeki Platós aðeins skuggi hins andlega veruleika.

Heimspeki Platós er *Phenomenalismi* að því leyti

að hinn sýnilegi heimur er þar sagður annað en hinn raunverulegi heimur.

Heimspeki Platós er *panþeismi* sem kennir að guð sé í öllu. Heimssálin er sögð í öllum hlutum og allt er birting guðdómsins sem öllu stjórnar. Hins vegar er kenning Platós um heimssmiðinn (Demiurge) þeismi, (guðstrú), en hann má sennilega skoða sem skáldlega túlkun guðdómsins í gerfi persónulegs guðs.

Veröld Platós er yfirskilvitleg, þar sem hún kennir að hinn raunverulegi heimur verði ekki skynjaður með skilningarvitum, en veruleikinn er líka í efninu og í veröld skynfæranna, þar sem heimssálin er sögð fylla allt rúmið.

Heimspeki Platós er öll miðuð við að lífið og allt í tilverunni hafi ákveðinn tilgang, stefni allt til guðdómsins („Hins góða").

Heimspeki Platós er nefnd dualismi, þar sem hann kennir að tilveran sé bæði „efni" og andi.

Siðfræði Platós er andvíg Hedonisma, þeirri kenningu að allt sé rétt sem eykur vellíðan og hamingju manna. Siðfræði hans miðast við það að maðurinn uppgötvi sjálfan sig, sitt innra guðlega eðli og sú leið krefst einnig fórna, ögunar og sjálfsafneitunar.

Kjarninn í stjórnmálakenningu Platós er sá, að hin bezta stjórn sé sameining lýðræðis og einræðis þar sem stjórnvizka og frelsi haldast í hendur.

Áhrif Platós á menningu Vesturlanda stafa ekki hvað sízt af því, að heimspeki hans sameinaðist boðun kristindómsins meðal Grikkja og Rómverja. Boðendur fagnaðarerindisins fundu í smiðju Plaóts haldbeztu rökin fyrir ýmsu í hinni kristnu kenningu: Í heimspeki hans fundu þeir rök fyrir ódauðleika sálarinnar. Þar er talað um hið guðlega eðli sálarinnar og fall hennar úr hæðum sínum. Guð er þar sagður orsök heimsins og hinn æðsti tilgangur mannsins. Þar er einnig talað um himnaríki, andlegan heim ofar þeim jarðneska. Þar er talað um baráttu anda og efnis, hins illa og góða. Þar er að finna trúarlega dulhyggju, sem gerði lítið úr veraldlegri skynsemi, en treysti á hina innri sýn andans. Þar var þúsundáraríkið sem átti að miðast við andlegan tilgang og fullkomnun mannsins. Og kenningu Platós mátti einnig túlka sem heimsafneitun þar sem hlutverk mannsins var að losna úr fangelsi efnisins og endurfæðast til andlegrar tilveru. — Þannig varð heimspeki Platós skykkja kristindómsins á vesturleið.

Af þessum ástæðum stendur Plató enn í dag nær kristnum menningarþjóðum en nokkur annar heimspekingur.